[Þess íslendska evangeliska smábókafélags rit Nr. 8.]

# Það eina nauðsýnliga,

útlagt úr svensku af útgéfaranum.

Eitt er nauðsýnligt, sagði Jesús. Luc. 10, 42.

Elskudu medmanneskjur! Það er ydur mikið vel kunnugt, að þér ecki eigið allíð vistarvern að hafa í þessari veröldu, og "að ydvart líf er svo sem reikur, hvör ed sést að eins um lítið augnablik og hverfur síðan brádliga." Nú kénnir guðs orð: "að manneskjunni er ásett einusinni að deya, og þareptir kémur dómurinn." Einn dómur, um hvörn öllum ber að þeinkja með alvöru og áhuga; einn dómur af Gudi, hvörs orð aldrei bregðast kunna; einn dómur, sem ágvardar kjör sálna vorra um alla eilífð. Nu munuð þér viðurkénna þennann sannleika og játa: "allt þetta er satt; vissuliga hljótum vér einusinni að deya; vér trúum ogsvo upprisu hinna dauðu og tilkomanda dómi." Leifið mér þá að tala við ydur eitt augnablik, út af þessum ydar eigin, að minnstakosti viðurkéndu, trúaráliðum; leifið mér að leida

ydar athugasemi til þessa umhugsunarverda tímapúnkts, hvörs afleidíngar eru hinar mikilvægustu, og sem alltíd meir og meir nálægist. Til þessa tímapúnkts, seigi eg, "á hvörjum vor herra Jesús Christus mun opinberast af himnum, ásamt med sínum voldugu einglum og med eldsloga, til ad hefna á öllum þeim, sem ecki þeckja Gud, og þeim (hvörjir þó Gud þeckji) ecki eru hlýdugir evangelío." 2 Thess. 1, 7. 8. Eg bid ydur, fyrir Guds skuld, hugsid um þennann tímapúnkt med alvarligri heimfærslu uppá sjálfa ydur, og áminnid ydur vid hvörju þér, eptir ydar ásigkomulagi, hafid orsök ad meiga búast, á þeirri ysirmáta skélfiligu stundu, því "hvör kann ad bída hans tilkomudags? og hvör mun géta stadist, nær hann opinberast?" Sannarliga géta þad ei allir; því, Gud nádi þad, þar eru margir, sem í árgist sálar sinnar og djúpri örvæntíngu, munu á þeim deigi hrópa til klettana og fjallanna, ad þaug hylji sig fyrir hans dýrdliga og hátignarfulla augliti, hvört þá verda mun þeim, sem ádur ógudligir vóru, skélfíngarfullt og óttaligt.

Þar á móti munu þó ecki allir, á þeim degi, felmtsfullir standa. Margir munu þá med hugrecki upphefja sín augu og hrópa fagnandi: "Sjá þetta er vor Gud, hvörs vér bidum, og hann mun frelsa oss. Þad er drottinn, vér bidum eptir honum, og nú meigum vér fagna og gladir vera yfir hans hjálprædi. Es. 25, 9.

Sá vísnandi ótti, sem þeir ógndligu og vantrúnðu munu þá reyna, hefur fullkomnustu orsakir. Því almáttugur Gud, hvors óvinir þeir eru, mun þá opinberast, "til ad straffa þá, fyrir öll þeirra gudlausu verk, med hvorjum þeir hafa illa breitt, og fyrir allt þad harda, sem þeir hafa móti hönum talad:" Jud. v. 15. Sömuleidis hafa þeir réttlátu gildar ástædur, til þeirrar lifandi og lifgandi vonar, sem þeir hafa, því Jesús er þeirra vinur. Hann kémur þá til ad framkvæma sitt yppatsta prests embætti, og til ad kalla þá blessada, svo þeir skulu eilífliga hjá drottni vera. Í frá hugleidíngu þessa háleita efnis, leidumst vér nátturliga til ad snúa þankum vorum til þeirrar eilífdar, sem þar á eptir fylgir; einnar eilífdar, í hvorri ástand og kjör alls mannkynsins skulu óumbreitanliga verda vid þad, sem þaug í dóminum úrskurdast; einnar eilífdar, í hvorri á eina sídu er óútmálanlig sæla fyrir þá réttlátu, en á adra skélfilig hormúng og örvænting fyrir þá ránglátu. Þessar hugleidingar verka þad, ad allar þessa lífs umsorganir sýnast yfrid lítilvægar og ómerkiligar; þær upplypta sálunni til eins verdugs augnamids, og géta orkad þess, ad snúa oss frá allri óvidurkvæmiligri fastheldni vid þad jardneska, sem og til ad vekja í hjörtum vorum þá sterkustu gyrnd, eptir þeirri frelsun, sem evangelíum bodar; því "hvad stodar þad manninn,

seigir Jesús, þó hann ávinni allann heiminn, ef hann líður samt tjón á sálu sinni?" Hvað notar það manneskjunni, þó hún fái framgáng í öllum sínum ærugyrndar óskum, og að géta lifað í allri þessa heims prakt og viðhöfn, ef hennar endalykt í dauðanum verður fyrir Guði ærulaus og hennar eilífi bústaður óslökvanligur eldslogi? Hvað gagnar það manneskjunni, þó hún í lífi þessu hafi feingið að njóta allra þeirra sælgætínga og bílífis, sem hennar spilta náttúra uppbugsa kann, svo framt hennar hlutskipti í eilífðinni skal verða sá ormur sem ei deyr, og sá eldur sem ei slokknar? Marc. 9, 44. Hvör nót eru að því, að fá sínar óhreinu og auðvirðiligu gyrndir saddar, með að draga saman þessarar jarðar leir, og safna fjársjóðum, svo að okurkarlinn varla veit sjálfur til hvörs hann á þá að brúka; hvör not eru að því, seigi eg, þar á þeim skélfiliga deigi, um hvörn vér talað höfum, að nirfillinn skal missa allt hvað hann hefur samandreigið, og sá ágjarni álítast sem afguðadýrkari, og sá sem með sínu hjarta var fastur við auðæfi heims þessa, hvör eð elskaði sképnurnar meira enn skaparann, hlýtur frá Guðs reiði-augliti að sökkva í afgrunn fordæmíngarinnar? Ritníngin seigir oss, að konúngar jarðarinnar munu skélfast í dómarans tilkomu, Opb. 6, 15; að þrælar gyrndanna munu ekki fá einn huggunar dropa í þeirra kvalastað, Luc. 16, 19; og að af þeim ágjörnu, sem í drott-

ins augum dárar álítast, muni sálna þeirra kraf-
ist verða, á einni nóttu, Luc 12, 16. Satt er
það að vísu, að sá lángi undandráttur, sem á
því er, að þessi skélfiligi tímapúnktur komi, for-
herðir manneskjuna, samt afvegaleiðir allt of
marga til að sofna út af í andvaraleysi, og jafn-
vel til að gjøra uppreist á móti Guði; "því sök-
um þess, seigir ritníngin, að ei geingur strax
dómur yfir vond verk mannanna, veiður hjarta
þeirra uppfyllt til að gjøra það vonda." Pred.
8, 11. Margir eru vissuliga mikið óhultir um sig
í sinni eigin innbirlíngu, og, ef vér eigum að trúa
orðum þeirra, þá eru þeir aldeilis án alls ótta.
O, kjæru manneskjur, ó, að þér vilduð hyggnir
vera, og athuga hvað til yðar friðar heyrir! O,
að þér syndud og í frammi hefdud meiri alvøru
í umsorguninni fyrir yðar eptirkomanda lífi; því
svo seigir Guðs andi: "hvað manneskjan sáir,
það mun hún uppskéra. Gal 6. 7. Allt það sem
í heiminum er, nefniliga fýsn augnanna, fýsn
holdsins og drambsemi lífsins, það er ecki af Guði,
heldur af heiminum; en heimurinn forgeingur og
hans lislíngar. 1 Jóh 2, 16. 17.

En máské þér spyrja viljið: "hvað viltú þá
að vér gjøra skulum?" Eg svara: "Þér skulud
sækja eptir því eina nauðsynliga!" En eg
meina þarmeð þá farsæld, sem svarar yðar and-
ligu náttúru, svo sem skynsamra sképna, sem
reikníng eiga Guði að standa; — þá frelsun,

sem er lángt fiærri enn ydvart bøl, svo sem syndugra fyrir Gudi; — já þær blessanir, sem eins eru lángvinnar, sem ydar ódaudligu sálir. Eg vil, ad þér skulud leita drottins medan hann er ad finna. Es. 55, 6. Leita hans, sem lángar eptir ad auðsýna ydur náð, og sá sem í Christo sætti heiminn vid sjálfann sig; og tilreiknadi þeim ecki þeirra syndir. 2 Cor. 5, 19. Þér skulud, nefniliga, trúa á Jesúm Christum; á hann, sem oss er af Gudi gjordur til vísdóms, og til réttlætis, og til helgunar, og til endurlausnar. 1 Cor. 1, 30. Hann — já hann einúngis er þetta naudsýnliga, sú dýrmæta perlan, sem vér yfir allt annad fram, eigum eptir ad leita. Asamt med hønnum finnid þér allt hvad þér vidþurfid, já meira enn hjartad kann ad æskja. Án hans erud þér sannarliga vesælar skepnur. Vitid þarfyrir, menn og brædur! «ad hja Gudi er fyrirgéfníngin, til þess ad menn óttist hann; og mikil endurlausn nálægt hønum." Ps. 130, 4. Vitid, «ad fyrir Christi skuld bodast ydur syndanna fyrirgéfníng; ad hann er upphafinn til eins herra og frelsara, til ad veita fyrirgéfníngu á ránglætinu; ad hann hefur makt á jørdu til ad fyrirgéfa syndirnar; ad hans blód hreinsar oss frá øllu voru ránglæti; ad hann kann eilífliga sáluhjálpina ad gjøra, og ad hann ecki vill útskúfa nockrum þeim sem til hans kémur." Ad hafa Christum fyrir sinn frelsara, og Gud fyrir sinn vin; ad hafa hans

anda búanda í sínu hjarta, med hans helgunar verkunum, sem eitt innsigli uppá vorn barnarétt, og einn pant vorrar tilkomandi arfleifdar; ad eiga allar nádarsáttmálans dýrmætu blessanir, sem afsnast verda út af hans óransakanliga nádarríki dómi, þetta er í sannleika, þetta er þad "eina naudsynliga".

Eitt skélfiligra ástand kann naumliga útmálad verda, enn þad sem hinir trúudu í Ephefo höfdu í verid, ádur enn þeir medtóku trúna, hvört postulinn útmálar í þessum ordum: «Þér vorud án Christis, framandi og fyrir utan borgarrétt Israels, og framandi frá testamenti fyrirheitisins, hafandi einga von og án Guds í heiminum. Eph. 2, 12. Yfirveigid nú vel þessa afmálun! og, gjæfi Gud, þér gjætud glöggliga séd og þeckt þessa efnis mikilvægi!

Þetta er rétt afmálan ydar eigin ástands, þegar þér fyrst komud í heim þennann. Hún innilykur í sér eintómt bøl og volædi, og eitt hryggiligt úslit til eilífs adskilnadar frá hönum, hvörs nád og velunnan er lífid, já þad eilífa lífid. Hvör og einn þá, sem ei trúir því sem Gud hefur sagt um sinn son, og sá sem ecki hefur gésid sig undir Jesúm med elsku og hlýdni, sá er enn nú í því ádursagda skélfiliga ástandi. Hann er allareidu fordæmdur og Guds reidi blífur yfir hönum. Hvörsu luckuligur er þar á móti einn trúadur Christinn madur? Hann hefur fundid þad eina

naudsýnliga. «Christur dýrdarinnar von er í hans hjarta, og er hans réttlæti." Af þeirri fyllíngu, sem, eptir sódurfins vilja, býr í Christo, bætast hans brestir; já Christur, med öllu því hann er, med öllum þeim gáfum sem hann fengid hefur, Christur med öllum hans yndarligu fullkomleikum, verdur einni þólitri sálu ad notum, og hún finnur í hönum eina óútseiganliga huggunar uppsprettu. Svoddan sálum er Christur yfir allt annad fram dýrmætur og elskuverdur. Þær útvelja hann svo sem sitt hlutskipti, og géta med særi velþócknun, med inniligri hjartans tilfinníngu sagt til hans: «Herra Jesú, nær eg hefi þig ad eins, þá hyrdi eg hvørki um himinn né jörd. Þó jafnvel mínn líkami og sál vanmegnist, þá ertú þó Gud alla tíma, mitt hjartans traust og hlutskipti."

Ef þér nú spyrja viljid framveigis: hvørjum er þá Christur naudsýnligur? Þá svarast: hann er þad öllum, já einu og sérhvørju mannsbarni! því þeir eru allir saman syndarar, og hafa af eingu ad hrósa sér fyrir Gudi." Róm. 3, 23. Lögmál Guds fordæmir alla menn; þad skilur þá eptir hjálparlausa. Þad hvørki linar hid minsta bodord sín og krøfur, né tilleggur yfirtrodslumønnum nockra hjálp. Þad talar med einni þrumuraustu, og þess óumbreitanligu ord eru þessi: «bölvadur sé hvør sá, sem ecki heldur allt þad

sem skrifad er í lögmálsbókinni!" Gal. 3, 10. svo ad fyrir lögmálsins verk gétur eckert hold réttlátt ordid í Guds augum. Róm. 3, 20.

En, þér viljid þeinkja: «Máské Gud verdi ecki svo strángur, sem hans ord setur hann fyrir sjónir; máské nockrir syndarar géti komist hjá ad verda uppvísir og straffadir." Kjæri! athugadú vel og grandgjæfiliga grundvöllinn til þessarar þinnar tómu vonar. Hann er eitt einúngis máské. Sjá, þetta er nú höfudástædan til þinnar vonar í eilífdinni! En þad er þó ecki búid þarmed; grundvöllur huggunar þinnar, er ennú verri enn þetta. Hann er einbara lýgi. Þar fyrir má vid þig og þína líka segja, sem Páulus sagdi vid þá í Ephesó C. 5, 6. «látid eingann táldraga ydur med hégómligum ordum, því fyrir svoddan kémur reidi Guds yfir börn vantrúarinnar", og á móti þessari reidi finst hvergi skjól né hæli, nema í Jesú Christó. «Ecki er heldur sálu-hjálp í neinum ödrum; því þar er eckert annad nafn undir himninum, mönnunum géfid, í hvörju þeir géti sáluhjálpina fundid", segir ritníngin. O, lít þarfyrir uppá hann, þann uppbyrjara og fullkomnara trúarinnar! Þessarar frelsunar og sáluhjálpar, sem med Jesú fridþægíngar offri af-rekud er, kann eingin manneskja án ad vera, hvörs stands edur kjara, sem hún vera kann. Ecki þó hún sé barn í tilliti aldursins", því vér erum

af *náttúrunni reiðinnar børn.*" Eph. 2, 3. Ekki heldur þó hún únglíngur sé, því svo stendur skrift ad: "gleð þig þú únga manneskja í þínum úngdómi, og lát hjarta þitt glaðt vera á þínum æsku døgum, og gjør hvað þig lystir, og hvað þínum augum þóknast, en vit þó, að Guð mun fyrir allt þetta leiða þig fyrir sinn dóm" Pred 11, 9. Ei heldur kann sá ríki án þessa frelsis að vera, «því góts hjálpar ecki á reiðinnar deigi." Orðskv 11, 4. Ecki heldur sá sem er í metorðum, "því hvørt og eitt kné skal lúta fyrir Jesú." Róm. 14, 11. Ei heldur sá fátæki, «því vér hljótum allir að opinberast fyrir Christi dómstóli." 2 Cor. 5, 10. «Jóhannes sá þá dauðu stóra og smáa, standa fyrir Guðs augliti." Opb. b. 20, 12. Eins lítið kunna þeir vísu að vera þessa án, hvørt sem heldur þeir eru það í heimsins augum, eður sinni eigin innbirlíngu; «því hann høndlar þá vísu í þeirra slægviisku, og vísdómur þessarar veraldar er dármenska fyrir Guði" 1 Cor. 3, 19. Ei heldur má sá fákjæni þess án vera, því «þeir sem ecki þeckja Guð, skulu straffaðir verða með eilífri útskúfun frá herrans augliti" 2 Thess 1, 9. Og í einu orði yfirhøfuð að segja: «hvør helst sem ei trúir, skal ei sjá lífið" Jóh 3, 36. Og fyrir sinnar vantrúar sakir fordæmdur, skal hann hlutskipti hafa með hræsnurum, á þeim stað: «hvar þeirra ormur deyr ecki, og þeirra eldur slokknar ecki." O, hugsið um þetta, þér sem gleymið Guði, svo þér ecki

fyrirfarist, og þar verdi einginn sem ydur frelsar! Því hvør ydar kann ad koma nærri einum forzærandi eldi? eda hvør af ydur kann ad þola þan eilífliga brennanda loga? Es. 33, 14.

En viljid þér nú spyrja enn framar: «hvar til er þá Christur svo nauðsynligur?" Svar: sannarliga, til alls þess, sem frama kann ydar andligu lucku og bæta úr ydar böli; til alls þess, sem þér æskja kunnid, svosem skynsamar og ódauðligar verur, en þó syndum undirokadar; og hvør sá, sem ecki álítur siálfann sig í sérhvörju þessu tilliti, hann þeckir enná allt of lítt siálfann sig, já meira ad seigia: hann þeckir siálfann sig aldeilis ecki. En ef þér hugleidid, ad þér erud skynsamar verur og þar ad auki ódaudligar, sem reikníng eiga Gudi ad standa, af øllum síuum verkum, á sídasta dómi, og ef þér finnid þar hjá, ad þér í óteljandi syndum sekir erud, þá munud þér undir eins finna, hvílíka þørf þér hafid á gódum rádum, til ad komast úr slíkum vandrædum. En þaug gódu rád fáid þér ad læra í Jesú skóla, því «hann er af Gudi gjørdur oss til vísdóms." Hann gjørir þann einfalda vísann, vísann til sáluhjálpar, fyrir trúna á siálfann sig. O, hjá þessum dýrmæta frelsara, sem eilífliga lifir, er nóga miskun ad fá, og nóga nád, til ad frelsa ydur. Hjá hønum er yfirgnæfanligleiki, til ad bæta allann ydar vansa, og audlegd til ad gjøra ydur ríka; hjá hønum er réttlæti, til ad frí-

kénna ydur frá hvørri og einni ydar sekt og sök, og til ad framleida ydur lífsalausa fyrir Guds hástól. Hann hefur allt þad til, sem þér, svosem ódaudligir, vidþurfid. Hann rædur yfir þeim blessunarríku guddómligrar gjædsku ándæfum Hann hefur lykla helvítis og daudans, og kann yfirgnæfanliga ad fridstilla ydar alvarligu laungun eptir ódaudligleikanum, þegar hann leidir ydur inn í þann stad, er sinn grundvöll hefur í hans eilífa konúngsríki; á þann hátt, ad hann gé'ur ydur eina eilífa dýrdar prídi, og eina óvísnanliga kórónu.

Sú trú og von, sem evangelíum géfur, hvør svo kroptugliga huggar sinni mans í öllum lífsins kríngumstædum, anglýsir þó sérdeilis sitt hugg unarríki á mótgángstímanum. Hugsjki fyrir lífi þessu uppfyllir eitt heimsins barn med ángist og ótta; en sá sem kann ad upplypta sínum augum til Guds, svo sem födurs og vinar, hann finnur hjá hönum yfirfljótanliga uppsprettu hjálpar og huggunar. Med inniligri gledi lítur hann á evangelii huggunarsömu nádarforirheit, og medal þeirra mun hann finna þad, sem vel á vid hans ástand, hvørt sem naud hans sprettur af líkamlignni edur andligum skorti. Hann veit ad sinn fadir situr á hátrón himnaríkis, og ad allir hlutir eru alvitsku hans undirgéfnir, og ad hann hefur lofad ad allir hlutir skuli ad lyktum til bestu heilla þéna sínum endurleystu; og þar sem þeir hafa einn

miskunsaman œdsta vrest, sem kénnir í brjósti um þeirra eymd og breiskleika, þá kunna þeir, med því stærri djörfúngu, at koma fram fyrir náðar-stólinn, svo þeir géti feingid miskunsemi og fundid nád, á þeim tíma, sem þeir helst þurfa hjálpar vid.

Þér seigid enn framar: «daudinn er skélfiligur." Já, eg játa, ad fyrir þá, sem ecki vita af írskþægíngu Jesú, þá er hann vissuliga af öllu skéfiligu, hinn allra skélfiligasti. Þeirra samvitska, sem þúngud er af fjölda ótelјandi misverka, auglit þess módgada Guds, og ormur sá sem aldrei deyr, en eilífliga nagar, allt þetta má vekja hjá slíkum eina skélfiliga tilhygsun. En fyrir þá sem eru fyrir trúna í Christo, er daudinn ecki skélfiligur; þeir kunna med djörfúngu ad seigja: «daudinn slær ei bug minn hœpinn, þó hans ásýnd sé skélfilig, því hann er af drottni drepinn; duglaus kann ei skada mig." «Broddur daudans er syndin, og syndarinnar kraptur er lögmálid, en Gudi séu þackir, sem oss hefur sigurinn géfid, fyrir Jesúm Christum!" 1 Cor. 15, 56.

Vilji nú enn þá nockrir seigja: «vér óttunst ad vér ecki trúadir séum"; þá svarast: þad er mögnligt, því «trúin er ecki allra." 2 Thess. 3, 2. Og þad gétur skéd, ad ydar ótti sé á meiri rokum bygdur, enn þér haldid edur viljid vidurkénna, jafnvel þótt þér hafit hafid jáun

fngu þessa á túngunni. Eu, mínir kjæru lesendur! Þessi sök er þó einhvör hin allra unkilvægasta; því eckert minna enn einnar ódaudligrar sálar eilífa velferd er í húsi; og einúngis sá mugulig leiki, ad ydar óttasemi kunni vera á alli of sterkum rökum bygd, í einni sök, sem snertir ástand ydar ódaudligu sálar, mætti nógur vera til ad koma ydur til ad titra af hrædslu. Án trúarinnar er ómögnligt Gudi ad þóknast, seigir ritníngin, Ebr. 11, 16. Utkrefur þá ecki þessa efnis stórkostliga mikilvægi, þá allra hernstu ransókn? Svo framt þér ecki erud trúadir, þá erud þér enuú undir reidinni; og á millum ydar og eilífrar fortöpunar skilur eckert, já eckert nema lífsins veiki þrádur, sem á einu augnabliki slitna kann, af þúsund tilfellum, sem eínginn mannligur vísdómur kann ad fyrirsjá, og eingin daudlig makt ad hindra.

Þar sem þér þá vitid vel, ad lífid er bædi stutt og fallvalt, þá leifid mér, ad eg alvarliga bidji ydur ad athuga, þad sem ydur allra mest árídur til eilífdarinnar, ádur enn þad dylst ad eilífu fyrir ydar augum. Vaktid ydur fyrir þeim þánka, hvör aldeilis mótstrídir biblíunni, ad þér kunnid géta verid trúadir, þó þér sjálfir vitid þad ecki. Vel veit eg ad hvör og einn christinn, er ecki færum ad útskýra, hvörnig hann komist hafi til sannleikans þeckíngar í Christo Jesú; þó hljóta víst þeir flestu ad hafa adgjætt nockur skref sinnar

framfarar í þessu efni. En hvørt sem heldur skref þessi þeckiast nú óljóst edur greiniliga, hlýtur þó efni þetta ad uppvekja hjá einum og sérhvørjum þá sterkustu laungun, þá nefniliga, ad géta brúkad ord þeß, sem fordum var blindur borinn, seig andi: «eitt veit eg, ad ádur var eg blindur, en nú sie eg.» Hafi nú umbreitíng þessi virkiliga skéd hjá ydur, þá þurfid þér ecki ad brúka þad gamla hræsnara túngumál, og med nærri tilfinníngarlausu hjarta seigja: «vér óttumst ad øll vor trú sé bara innbirlíng;» því sá sem trúir á Guds son, hefur vitnisburdinn þar um í sjálfum sér, 1 Jóh. 5, 10. Sá hjá hvørjum þessi umbreitíng et skén, mun í raun og verki med sinni trú, kiærleika og heil. hlýdni, láta þad fyrir øllum heimi berliga í ljósi. Hann þeckir, ad hann hefur feingid frelsi til ad inngánga í þad heilaga fyrir Jesú blód. Ebr. 10, 19. Hann þackar hjartanliga fyrir þad, ad honum er leifiligt ad bidja Gud, og ad Gud, sem géfa kann alla þá blessun, sem hann vidþarf, hefur af nád sinni heitid ad heyra þeirra bænir, sem ákalla hann, í hans elskuliga sonar nafni. En þad er án þarfar ad tala hér framar um ávexti þessarar hjartans umbreitíngar, sem verkast fyrir Guds ord og hans anda. Því þessi umbreitíng og þessir ávextir eru þesskir, sem ljóst þeckiast, þar sem þeir til eru. Les þarum þessa stadi í ritníngunni, hjá Jóh. 3, 3. Gal. 5, 22–24 Rom. 6, 6. 1 Jóh. 5, 10.

Elskudu lesarar! Eg vona þér minnist þeirra orda, sem eg framfærdi í uppbyrjun þessarar litlu rædu: «ad ydvart líf sé sem reikur, sem sjest um eitt augnablik og hverfur sídan." Nockur af þess-um fáu augnablikum eru óapturkallanliga lidin, sídan þér byriudud ad lesa blad þetta; og þér vitid ecki, hvort þér lifa munud þartil þér hafid lesid þad á enda. En eitt er þó víst: ad sá tímans púnktur, á hvörjum þér virkiliga taldir verdid med þeim daudu, og ágvarda mun ydar kjör um alla eilífd, hann er skieldliga ad nálægjast. Daudinn gjörir enda á ydar reisu ægnum heim þennann, en eptir daudann er dómurinn; og nær Guds til-gángur ad halda þessari veröldu vid makt er upp-fylltur, mun sú sídasta básúna qveda vid í skýum himins. Þá munu þeir daudu upprísa. Vér vitum ad á þessu skélfiliga augnabliki, munu himn-arnir med stórbrestum forgánga, og höfudsképn-urnar af hita bráðna, og jördin, og allt hvad á henni er, mun uppbrenna. 2 Pet. 3, 10. Þá mun drottinn Jesús nidurstíga í dýrdligri hátign, til ad dæma heiminn med réttvísi. Fyrst munu þeir þá, sem dáid hafa í Christo, upprísa og ásamt med sínum brædrum, sem þá lífs eru, verda upp-ríektir móts vid drottinn í loptid. 1 Þess. 4, 16. 17. Nær gjörvallt mannkynnid stendur þar svo fyrir Guds hátignar tróni, þá verda þeir réttlátu settir dómaranum til hægri blidar, en þeir vondu til vinstri. Þeir fyrri uppfyllast þá med óútskýran-

ligri gledi, en þeir ſídari med óendanligri ángiſt og ſkømm. Til þeirra fyrri mun þá dómarinn ſeigja: "komid þér bleſſadir mı́ns ſødurs, og eignist þad ríki ſem ydur er fyrirbúid frá upphafi veraldar"! og til hinna ſídari: «farid burtu frá mér þér bølvadir í eilífann eld, ſem fyrirbúinn er díoflinum og hans árum! Og þeſſir munu þá ſtrax fara í eilífar pýſlir, en þeir réttlátu í eilíft líf." Matth. 23, 34. 41. 46. Svoleidis útmálar Guds ord, hvørſu tilgánga muni á þeim ſtóra deigi.

O þú ſem þetta les og heyrir! hefur þú nockurntíma af alvøru ſett þér þennann ſídaſta dóms dag fyrir ſjónir? Hefurdú vel yfirvegad høfud atridi þeſs lærdóms, ſem kénnir þér, hvørſu þú med djørfúngu kunnir ad gánga fram fyrir Guds auglit, á þeſſum óttaliga deigi? Og — hafirdú ecki gjørdt þad, þá leif mér, ad eg alvarliga upphvetji — já ſæri þig til, ad þú nú ſtrax takir þad til hjarta! Allir menn hljóta fyrir Chriſts dómſtóli ad birtaſt, og þú hlýtur endiliga ad finnaſt í þeirra hóp, annadhvørt á hægri hlid dómarans, edur hina vinſtri Þú ert ein ódaudlig vera. Þín eilífa velferd ſtendur í voda. Líf edur daudi, himnaríki ellegar helvíti liggur fyrir þér. Evangelíum bodar þér Guds miſkunſemi; heyr þann bodſkap med hjartans þacklæti og føgnudi; hann hljódar ſvo: «Svo elſkadi Gud

heiminn, ad hann gaf út sinn elskuligann son, til þess ad allir þeir sem á hann trúa ecki fyrir-farist, heldur hafi eilíft líf", 1 Joh. 3. 16. «Fyrir Christum verdur ydur bodud syndanna fyrirgéfníng, og hver hann trúir á hann, sá verdur réttlátur", seigir Paulus, Gjørn. b. 13, 33. 89.

Æl látid þá áminna ydur, ó, þér manneskjur, ad þér takid á móti frelsaranum, eins og brotligum og fortapudum syndurum ber. Hversu aumkunarligt sem ydar ástand vera kann, gétur þad þó aldrei betra ordid, fyr enn þér medtakid Christum. Svo leingi þér leitist vid ad betra ydur fyrir utan Christum, og þó sú betran yrdi aldrei svo fullkomin, þá erud þér samt Guds óvinir í ydar hjarta.

Hugsid þessvegna med. allri alvøru um, hvad þér hafid ad gjora. Margir meina þeir gjarnan vildu trúa á Christum, einasta þeir væru ecki svo aldeilis óverdugir þar til; og svoleidis, í þeirri ímindun, ad þad sé ofdyrfkufullt fyrir sig, ad þeir í því sama auma ásigkomulagi, sem þeir þá eru, vogist til ad kasta sér ad Jesu fótum, undandraga þeir ad koma til hans, þángad til þeir ordnir eru, ad minsta kosti í sínum eigin augum, þar til nockru verdugri enn ádur. En hvad er slíkt annad enn ad upprétta sitt eigid réttlæti, ad vilja líka sem koma med einn betalíng í hendi sér, fyrir þá frelsun og sáluhjálp, sem svo ørlátliga géfin verdur til allra þeirra, sem

finna sig þar til eilífrar óverduga, og það án peninga og betalings? Vitið þarfyrir, að Jesús tekur á móti syndurum; og nema þér komið til hans svo sem þurfamenn, munuð þér æfinliga í ydar vesöld og volæði blífa. Því hvað sem þér fyrir ydur takið að gjöra, munuð þér þó hvörki géta þar með sjálfa ydur frelsað, eður feingið umbreitt þeim ófarsæliga vilja þess eilífa Jehovæ. Sá sem deyr án réttiligs ángurs fyrir sínar syndir, já þó hann deyi með hugarángri, ef han ei deyr með lifandi trú á lausnara heimsins, hlýtur hann að eilífu pínast með djöflinum og hans árum.

Yfirgéfið þarfyrir satans og syndarinnar ríki, því eilíf eydilegging er þeim öllum búin, sem í því eru. Sá blessaði Jesús býdur syndurum til sín, og hefur géfið þá stærstu og náðarríkustu uppbvatníngu og fullvissu um, að þeim, sem til hans kémur, skuli með gledi mótitekið verða. «Kómið til mín, seigir hann sjálfur, allir þér sem erfiði drígið og þúnga erud þjádir, eg vil ydur endurnæra", Math. 11, 28. O! þarfyrir «leitið drottins, medan hann er að finna, kallið á hann, medan hann er nálægur! Sá ógudligi láti af sínum veigi og syndarinn af sinni hugsun, og snúi sér til drottins, þá mun hann miskuna hönum; og til Guðs vors, því hjá hönum er mikil fyrirgéfníng", Es. 55, 6. 7. Hvör sem trúir á soninn, skal hafa eilíft líf, og hvör sem ekki trúir

á soninn, skal ecki siá lífid, heldur blífur Guds reidi yfir hönum", Joh. 3, 36. Frá henni fordi Gud oss öllum, af sinni miskunsemi! Amen!

---

Eitt er naudsynligt, ó Jesu!
nun mér ad skilja þetta;
ad einginn gétur utan þú
einn mína sálu mettad;
allt annad kvelur andu mín,
allt annad henni verkar pín,
en einga ánægju rétta.

Eignist eg þetta eina huoss,
allt er þá meir enn feingid;
ó Jesú! hver ed elskar oss,
eptir þér hjartad leingir;
lát mig hreinsa þitt lausnarblód,
lækníng sú er mér ystrid god,
synd ef samviskú þreingir.

Þó allt of margir i heimi hér
herra! þig yfirgéfi,
sús vil eg alltid fylgja þér,
fram ad helstundar skrefi;
ord þitt er líf og andi hreinn,
ecki tapast sá madur neinn,
sem vid þig sér haldid hefir.

---